# Hugvekia

## til góðra

# Innbúa á Íslandi.

Að bón konúngl. tilskipaðrar Commissiónar
til yfirvegunar Íslands nauðþurftar

framsett og útgefin

af

Magnúsi Stephensen,
K. Hát. Justitsráði og Justitiario í þeim konúngl.
íslendska Landsyfirrétti, og Meðlimi ýmsra
Lærdóms Felaga.

Kaupmannahöfn 1808.
Prentuð hiá Joh. Rúd. Thiele.



## Kiæru Landar!

Herjans Dísir hrella vór Nordurlønd. Þær fengu lokfius skotid mord- og eldskeytum síuum inn í Adseturssstad vors Konúngs; á, jafn undirførulann og skammarlegann hátt stolist inn í hans Land, undir slærdarfullri vináttu-grímu, til ad ræna burt herskipa flota Hans og áfamt ræna lønd Hans og ríki, sem luckusælust vóru af ølløum Nordurálfunnar, þvi nær aldarlángri fridsæld. Þær hafa hertekid fiølda af dønskum, norskum og íslendskum kaupførum, med ofbeldi og slærd vakid vorrar Þiódar verskuldudu gremiu, og qvadt hana til vopnataks fyrir Konúnginn, fyrir Fødurlandid og egid Frelsi sitt. Þær hafa lagt vígbúin herskip umkríng vorar siáfarstrendur til ad gióreyda allri kaupverdslun, banna alla adflutnínga landa ámilli af heilstu lifs naudsynjum og af fremsta megni þarmed ad orsaka bágindi og fólksfellir.

Þetta tímabil gat nú allrasist útrýmt ángursamri umhyggiu úr hiarta vors allranuldasta Landsfødurs

födurs og Kongúngs, Kóngs Fridriks ens Siøtta, einninn fyrir Ydar adstod og frelsun, ad þvi leiti núverandi ástand sýnir sært hana ad afreka, þar, sem þier erud staddir. Þessvegna tilskipadi Hann allranádugast Nefnd af valinkunnum um velfarnan ydar og biørg vidqvæmum mønnulu, hvørra greind og rádvendni vóru jafn-gódfrægar; hana qvaddi hann úr efstu stiórnar-rádum sínum til sameiginlegrar yfirvegunar, hvørsu báglindum og biargarskorti á Íslandi, medal annars, yrdi ad møguleg-leikum frábægt, og baud henni ad skira Sier allraundirgefnast frá, hvør rád hún þartil sæi.

Vid yfirvegun þessa merkisatridis hefir háttnefnd Commission medal annars fundid, ad eitthvørt hid krøptugasta medal til ad afstýra almennings neyd í Landinu, medan skipaferdum er tálmad, er hin atorkusamasta atvinnu-leitan af Landsins egin adalbiargrædis vegum, þeirra friálsa og skynsama nidurskipan, almennari og áhyggiusamari notkan, enn hingad til, fleiri náttúrunnar giæda, er hún á Íslandi vída frambýdur og á þess siáfarstrøndum, sømuleidis í þess vøtnum og vatnsføllum. Þess vegna hefir og háttnefnd Commission falid mier á hendur, ad framvarpa eptirfylgiandi atridum, sem hún áleit misg svo áríðandi, í tilliti til þeirra meir almennu útbreidslu til allra Landsálfa, hvar þesshattar biargrædi nú, annadhvørt ecki, eda ad eins linlega er sókt, ámóti þvi, sem algengt er í ødrum hérudum Íslands.

I. Um

## I. Um Söl og Etiþáng.

Serhvørr Siórbóndi og sømuleidis margt Sveitafólk giørþeckir Søl (fucus palmatus), sem eru almenn fæda fiølda manna í nockrum herudum, einkum Arnefs, Borgarfiardar og Dala Sýslum, hvar þeim jafnvel er til sølu í uppsveitir toluverdt safnad, hvar þau og seliast dýrum dómum, einkum fyrir bestu landaura, smiør, kiøt, ull, skinn, og brúkast jafnadarlega til mannfædis. I nockrum ødrum herudum er þeirra brúkun einninn alþeckt, þó hvørgi nærri med jafnri alúd vidhøfd, sem í fyrrnefndum 3 Sýslum, en sumstadar vid siô, er eckert um þau hirdt, sumstadar ad eins í hardindum gefa fátækir þeim nockurn gaum, enn þótt þau í øllu tilliti gefi mønnum gott fædi, hvørs safn til vetrarforda, uppheldis og heilsubótar ætti øllum ad vera hugarhaldid, hvar nockur faung eru til, eins í bestu árum, á hvørju þó finnst, því midur! ofvída mikill vanræktar-brestur. Þau eru þó algengt fædi í landi voru jafnvel frá Landnáms døgum; þeirra brúkun hafa fyrstu Landnámsmenn líklega innleidt frá Norvegi, því einhvør hin eldsta Saga Islands, nefnilega Egils Skallagríms-sonar vottar lióslega, ad þegar Egill í elli sinni liet ser fallast svo miøg um missir sonar síns Bødvars, ad hann ríedi af ad svelta sig í hel, feck dóttir hans Þorgerdur í Hiardarholti snúid honum frá því fyrirtæki med því ad ginna hann til sølva-áts. Grágás Islendínga telur Søl einn-

einninn med jardargróda, hvørs neyta megi þar sem hann finnst, en ei burtfæra án ordlofs undir stórsektir, og Sturlúnga vottar berlega um Sølva-kaup og reidir til Sølva-fiøru og kaupa úr ymsum hjerudum vesturlands til Saurbæar í Dala Sýslu. Verdlag þeirra í Búaløgum, jafnt þríhristnum fiallagrøsum edur og hálfvætt misls, máldagar kirkna og jarda sýna og ad þau allà tid hafa verid med merkis hlunnindum talin og mikid bús-lag.

Þeim til leidarvísirs, sem búa nálægt sió, en eru ei vanir sølvat-kiu, minnist eg þess hier: ad Søl eru tvennslags, þunn og smágerd, sem eru þau bestu, glansandi og fagurdøckraud á lit, ofantil allopt med gulleitum bladaknippum, himnugiørdum, tví- og þrí-klofnum, cptar legg-laus; ellegar bløðin, þó løgun þeirra se sön, eru deckri ad lit, þyckvari og stærri. Þau fylla meira upp, en eru ei ørt svo smeckgód. Søl vaxa jafnan utarlega á steinflúrum og skerium, hellst flatgiørdum, en ei ofarlega vid sandvíkur, og lausa-griót eda smá-møl. Med stórstraums- og gin-fiørum er því þeirra tekia ardmest sem utarst, og vegna þurks þeirra til vetrarforda, er hún hellst tidkanleg í túna-sláttar lok, þá þau vyrdast fullsprottinn. Qvennfólk, únglingar, og hvørr sem missast má þartil, fer þá í sølvafiøru og skier upp med stórum knífi eda ljá-spík øll, sem nóg vaxin virdast. Í kláfum eda meisum eru þau borin eda reidd strax upp yfir flædarmál, sidan afvøtnud og vandlega þvegin, hvar færi er á, í rennanda, annars í

brunn-

brunn=vätni, og skuli það vel vera, veitir ei af að afvatna þau í 2 dægur. Á grjót eða á slegna og snøggva þurrlenda jørð eru þau síðan breidd út til þerris, sem hey, opt viðsnúin og svo vandlega þurkuð, sem møgulegt er. Að því búnu á að fergja þau fast saman í hrein og þurr trie-ílát, byrgja, já fergja þau vel ofan, og reki ei neyð eptir þeirra brúkun fyrri, verða þau best, megi þau þanninn standa á þurrum stað í 3 mánuði eða lengur, því þá eru þau orðin hvít á lit, í stað þess að þau þurkuð vóru jørp niðurlátin, og nú alsett af því fínasta hvítasykri, sem gjørir þau sæt og ljúffeng átu. Bresti þessa meðferð, verður hvítan og sætan minni og þau miður lostæt; enda eru þykkblødduðu sølin sjaldan svo sykurrík, sem hin þunngjerðu, smáu. Þanninn meðhøndlud og geymd gefa þau sterkann og þægilegann daun af sér, nálsvipaðann kraptagóðu Theegrasi í kössum. Aðgætnir menn hafa eptir því tekið, að skiemd se á sølvum að reita þau upp eða rífa með abli, hvarmeð rætur þeirra týnast, og smá skeljúngar og hrúðurkallar festast opt við þeirra forna sæti, en sen þau skorin með ljá eða knífi, vaxa þau þeim mun frjóslegar á ný og enn þjettar. Þó eg nú greini, að tekja þeirra se arðmest með stórstraumum, og að þau verði best og fái mesta hneitu um sig, verði þau vel þurkuð og lengi geymd áður enn þau brúkast, er það samt vafalaust, að þau ný-þurkuð og vel afvøtnuð eru einninn allgott fæði, hvað margur fátækur og nýtir sér á vetrum í bágri tíð, þegar færi er á. En

En — ecki ad eins fátæklingar heldur medfram efnagódir menn hafa lengi notat ser söl til fædis, sem holla, nærandi og yfrid lüiffenga matar tilbreytingu. Þegar 1670 vissi sá lærdi Dr. Ole Borch i Kaupmannahöfn ad telja þau medal hnofsgæta Islendinga og siálfs þess nafnfræga efnamanns Mag. Brynjúlfs Biskups Sveinssonar í Skálholti. Hra. Landt, Prestur á Færeyum, segir ad þau seu þar allopt til sælgætis etin, ásfuudum steikt, sem þyki enn betra. Rajus og Lightfoot tiá þau almennt fædi í Scotlandi, hvar þau nefnast Dils, og medal Irskra, er kalla þau Dulish, en í Nordymbralandi eru þau einninn etin og nefnd Dulse. A' Midjardarhafs-eyiunum eru innbúar, ad vitni Stellers, miög svo sólgnir í þessa jurt, sem þeir allopt eta hráa, en jafnast sodna med kiøt riettum sínum til kryddmetis, sem þarvid giøraft þá raudleitari og seydid þyckhlaupnara. Hann tiáir og, ad almenningur á Englandi siódi þau og eti med ødrum matjurtum, ad eg ei framtelji fleiri, ofs enn fiarlægari þióda dæmi um sama.

Ecki þarf eg ad skíra frá brúkun þeirra tilmatar medal vor á Islandi, því hvørr, sem Søl hefir sied, veit ad þau bordast í fisks eda brauds stad eda ásamt þessu med smiøri, af hvøriu þau ei kresta mikid í vidbit. Nockrir eta þau þurr á vetrum med slautum, mióll eda miólkurblands mat og ødrum spónamat, en ad þau siódist í miólk og bordist med spónum, sem Lightfoot segir frá,

þecki

þecki eg ei um Søl, heldur Murukiarna, þó lík brukun þeirra á Midjardarhafs eyunum sýni þá matreidslu þeirra ei ólíklega.

Um krapt og næríngu Sølva til manneldis er margra þióda reynsla, og vorrar egin fullnóg um fleiri undanfarnar aldir, og øllum ber saman þarum; ad þau gefi eitthvørt hid hollasta og mest nærandi fædi fyrir menn og fienad, undir eins og liúffengt ad smeck. Þau eru þúng ad vigt og þareptir driúg og sadsøm. Landlæknir vor Biarni sál. Pálsson, madur ad hygginduni og rádvendni alkunnur, hefir 1749 í látínskri ritgiørd um Søl, talid sem merki þaruppá, ad fátæk kona med barn á brióstí hafi, á eydiplátsi, (sem flædiskieri) stødd í 3 vikur, haldid sér og barninu uppi einúngis á hráum sølvum og murukiarna, og ad í Grænlandi eti menn þau med vareygd, ad þau feiti ecki um of. Hann og Dr. Ole Borch hafa náqvæmlega ransakad þeirra undirstødu efni og fundid þad ýfrid hollt og nærandi. Reynslan, hvar þau á Íslandi med jafnadi brúkast, kiennir og hid sama og ad þau eckert íllt af sér leidi; þau álítast sem hægt opnandi og þó vel nærandi fædi, hentugt jafnvel ólíettum konum; nockrir halda þar, ad þau varni skyrbjúgi og líkþrá, og opt eyda þau bólgu og verk í bríóstum qvenna, hrá vidløgd.

Fyrrnefndur gódfrægi Landlæknir Biarni Pálsson telur þeim eins til Gyldis, ásamt fleiru Ætiþángi, ad þau sen ýfrid kiælandi, og hrá, løgd vid bólgur, votti góda verkun, jafnvel í fótaveiki; ad

þau

þau seu hid hollasta fædi, hvar matarmelting se veikt af gallbresti, og í búkhlaupi, qvefsóttum, já, lúngnasótt. Hann hermir og eptir gømlum lækníngabókum í landinu, ad þau, hrá etin, lini stíng í brióstí og eydi ógledi, og álitur þau enn víssar sefandi læknismedal, enn sodhlaup af kiøti eda beinum; ad þau med þeirra fínu og leysandi sætu øvi laungun eptir mat og drykk, (eins og hvanna og hvannarótar saft) og seu því hentug í matleida, velgju-umbrotum og þesshättar tilfellum, sem leida af veiktri matar-meltingu; ad þau feiti, friófgi og seu einkar holl í tæríngu, skyrbiúgi og hardlífi í lángvinnum sóttum. Lightfoot leggur til: ad á Scotsku Eyunni Skye seu þau sodin í vatni og etin med litlu einu af smiøri, í kølduſóttum, og þanninn verdi þau allopt opnandi medal.

Svo holl og nærandi sem Sølin, eptir framanskrifudu reynast mønnum, eru þau hvørttveggia engu midur øllum Fenadi, sem etur þau med mikilli fíkn, bædi hrá og þur og þrífst gæda vel af, betur jafnvel enn af øllu fódri ødru, og margreynt er þad, ad kýr miólka ei betur eptir nockurt annad fódur. Dr. Borch og Laurentzen færa í frásøgu, ad kaupmadur nockur á Íslandi hafi alid lamb á sølvum eingaungu og skorid rúmlega ársgamalt, hafi þá kiøt þess verid væmid af offitu, en mørin vóg 45 merkur. *)

Þó

*) Siá Th. Bartholin. Acta Havn. V. IV. p. 33, 159 og Laurentz. Musæum regium 1710. P. I. Sect. 6. No. 5.

Þó nú margur, ámedan allt liek fyrir oss í lyndi, ecki hafa gefid svo dýrmætri plöntu, sem Sölin eru, eptir framantöldu, þann gaum, er þau áttu skilinn, ennþótt annad væri fyrir hendi, verdskulda þau nú í strids- og megnri hallæristíd, tvöfaldann, bædi þessvegna, ad ætíd, en einkum nú, er oss serhvör máltíd dýrmætt lifsmedal, og ad vid sió, hvar brauds- og miols-skorturinn er háskalegastur, og hvar sifelld fiskæta fæda; þó næg fyrir hendi væri, hvará þó vída er ad óttast mikinn misbrest, kann ad líkindum af ser ad leida skyrbiúg, kláda, hettu- og megurdar-sóttir, er þessi tilbreyting einhvör hin hóllasta, sem ad reyndra Læknara dómi í Kaupmannahöfn, er öldúngis ómissandi undir núverandi kríngumstædum, ásamt stödugri brúkun, þá færi gefst framvegis, á skarfakáli, eins og þad vex á jördunni, og seydi af horblödku blödum. Fiallagrös í mat, á íslendskann hátt tilreidd, eda seydd í vatni eda miólkurblandi, síud sídan, en hlaupid af þeim kaldt etid med miólk, telja þeir og einkar gott medal í innantöku sóttum, sem opt fylgia megurd, og ágætasta eitthvört vid brióstveikju. Auk þessa varna grænar iurtir, hráar etnar, svosem súrur og fifla-blödkur, skyrbiúgi og ödrum megurdar sóttum, og kálgresi og heimilis-nióla blödkur eru, í súpum edur graut sodnar, yfrid holl fæda med fiskætum, ad ógleymdum miólkurmat, hvar á honum er kostur.

Til Ætiþángs tel eg nú hier þær þángtegundir, sem í bágindum eru til sædis á Íslandi

al-

almennast brúkadar og þartil best lagadar. Medal þeirra er Marikjarni eda Murukiarni (fucus esculentus) hin allrahellsta, og sem gengur nærst Sølvum. Hann er og vid sjáfarsídu alþecktur og fæst þar í mikilli mergd vídarst hvar vid hólma og skier og í diúpum þaralónum; almennast er blad hans 1 til 4 alna á lengd, og 2 til 8 þumlúnga breidast. Leggurinn vid rótina á bord vid litla fingur manns ad dygurd, en úr því bladinu nær, flatari og breidari upp úr gegn, bladid er eitt, einlægt, uppmióckandi og efri partur þess, sem í túngur, smáar, stórar og hruckóttar, en uppmióckandi deildur, vidlíka þyckt og bókfell, mjúkt, sem kálblad, og nærstum gagnsært med dygurri leggiartegund eptir endilaungu. Á lit er þad optar dockgrænleitt þó ástundum raudleitt sumstadar, en se planta þessi sodin, verdur hún fagurgræn. Smáar og ungar plöntur af þessu tagi nefna menn eginlega Marikiarna eda Murukiarna, sem eru smeckbetri og liúffengari þeim stærri. Á stærri plöntunum nefna menn nedri hlutann biöllu, en hinn efri, úr því bladid skiptist í misjafnar og hruckóttar túngur, kiarna; hann er og enn smeckbetri og sætari, þó öll þessi planta se góð, jafnvel hrá tuggin. Med stórstraumum má nægd mikla fá af Marikiarna og skiera upp, hvar í þaralónum vex, med staung og nedan í bundnum ljá, enda rekur opt mikid af honum í vedrum, en — hann fúnar fliótt, og er til fædis einúngis nýr tækilegur; í Septembri er hann fullvaxinn.

Hann

Hann skal afvatna í 2 dægur, saxa síðan sem kál og sióða í vatni, dryckiar- edá miólkurblandi, og hvar verdur, mauk þetta miølfesta. Efnamenn brúka ástundum grión, og borda svo graut þenna med miólk eda rióma. Prestur Landt segir ad rikir og fátækir í Færeyum bordi hann, en leggurinn þyki betri og bladinu bádumeginn varpi margur burt. Lightfoot hermir hid sama frá Englandi, og ad planta þessi se hentug óliettum konum, sem ilaungun hafa ástundum eptir óhollri fædu annari. Landlæknir Biarni Pálsson heldur bladinu jafnmikid fram, en segir: ad se mikid etid af pløntu þessari éafvatnadri, veki hún vallgáng. Uppá nærandi krapt hennar er fyrrtalid dæmi blſ. 9.

Murukiarni er lostætt og ágætt miólkurfódur fyrir kýr, eins og hann er upptekinn úr sióonum, og allt eins sodinn. Prófessor Strøm segir eckert hey taka honum fram, og ad í Norvegi se miklu af honum safnad til fódurs á vorum. Se hann látinn rigna og síðan rotna í dyngium, er hann einhvørr hinn besti áburdur.

Þá eru og Fiørugrøs (fucus crispus) eda Gvendargrøs til matar vidhøfd hiá oss. Þau eru og alþeckt, lik Klóungi, Krædu, (lichen tenuifolius & nigricans) og fiallagrøsum, litil og jarpdøckleit. Sølvamædur (fucus ciliatus) vaxa opt í grend vid Søl, en eru þeim þó ólik og gefa litla eptirtekiu, døckjørp, med randhærdum, meir boga-dregnum bløðum. Hvørutveggiu afvatnast

sem

sem Marikiarninn, saxast, sjóðast, og borðast á sama hátt. Þau má og þurka sem Söl, en bleyta út aptur og sjóða, sem nú var sagt. Professor Hornemann, Landt, Lightfoot og Esper telja þau albrúkanleg til átu, þó eru þau hellst í bág-indum notuð.

Enn fleiri þángtegundir hafa menn og í megn-um hallærum til matar haft, svo sem Kerlingar-eyra, sem er efsti partur af Hrossaþaungli (fucus digitatus) frá stocksendanum eða nærst viðhángandi partur blöðkunnar, uns hún strengslast í reima-blöð; Pyckvaþáng (fucus nodosus), sem er með einstökum stórum blöðrum, og tvídeildum þángs-laufum, gulgrænum á lit. Fénaði eru þessar teg-undir þó hollari og til mannfæðis einúngis í neyð viðhafandi, hvar Söl, Marikiarni eða Fjöru-grös ei fást. Með Pyckvaþángi lita Færeyingar grænt, og það gefur, eins og Hrossaþaunglar og Bóluþáng (fucus vesiculosus), þurkað vel og síðan brennt í lágum steinbyrgium og vel íhrært, svo jafnt útbrenni, ágæta Pottösku (Kelp, Soda), sem enskir borgúðu í Norvegi með 25 til 30 rda. hvør 1000 pund. Loksins hafa menn og lagt sér til munns Reima-þara (fucus loreus), er æ skiptist í 2 lángar reimar, flýtur ofan siáfar og finnst opt 2ia fadma lángur, líkastur leðri, háll, þyckur og illa gulur nýr, en dockleitur þurr; hann er þó einna ósætilegastur. Þessar 3 þángtegundir mat-reiðast annars, sem Marikiarni, hvar neyð býð-ur að brúka þær til fæðis.

Himnu-

Himnu-þáng (ulva umbilicalis) finnst vída í fiörum útþanid yfir steina, sem líknarbelgur, og giörir þá hála miøg yfirferdar, dsckjarpleitt áſýndar og sem þunnar himnur, hvør útbreidd yfir adra. Lightfoot, Professor Hornemann, Mohr og Prestur Landt segia, ad þvi í Scotlandi se almennt safnad í Martsí mánudi til matar; er þad þá afvatnad, sodid og etid med bræddu smiøri og sýru. Þad er og saltad geymt árum saman og sídan bordad á sama hátt.

## II. Um Fiallagrøs.

Mier er fyrirlagt einninn ad ámálga hid markverdygsta um þessa nytsømu jurt, sem hvørr madur í landinu þeckir. Fiallagrøs (Lichen islandicus) þurfa þvi engrar lýsingar vid á þessum stad, ellegar fyrirsagnar um þeirra safn, hreinsun og matreidslu, sem algeng er Austan- og Nordanlands, en; þvi midur! ei svo almennt eda áhyggiusamlega stundud á Sudur- og Vesturlandi, hvar fiskifaung og ønnur agnsemi hafa setid í fyrirrúmi. Nú, þarámót, þegar þessi bregdast kunna, ellegar vid sió er einkum ad fiskætum ad búa, nú þá kornvara lítil, sem engin fæst, til umbreytingar og heilsu viðurhalds, verdur fiallagrasa safn og brúkun þvi ómissanlegri til búdrýginda og heilnæmis, sem ávexti einsømul eru til fædis miøg svo oholl, en grasagrautur og grasa-hlaup, ásamt fyrrtøldum jurtum bls. 11, eydir þeirra óheilnæmi. Sumir

siódæ

siðda þau í sýru-blöndu (eptir að heitt vatn hefir um dægur staðið á þeim, til að eyða bitru þeirra, hvörju vatni er burthellt) uns seyðið þyknar, er það þá síað frá grösunum og þyknar til hlaups þegar kólnar; borðast það annaðhvört með skyri, eins og grasagrauturinn, eða með mjólkur áláti. Sumir saxa, en aðrir þurka þau eptir fyrstu útvötnun, við eld eða sól, láta þau í posa eða malsecki, og berja með kieblum uns smámolna, og siöða síðan. Í miólk soðin eða miólkurblandi eru þau gæða matur og remmulaus. Það er reynt af Læknurum, að sögn Professor Ströms, að 1 pund grasa-hlaups gefi meiri næringu, enn 3 eða 4 pund brauðs. Se remma þeirra vel útvötnuð, og þau síðan þurkuð og mulin með kjeblum eða möluð á qvörn, má blanda miöli þerra við annað til brauðs og einkar vel í jardepla stöppu, við hvörja það eltist vandlega saman, og gefur þá gæða-gott og hollt brauð.

Hvörnin sem Fiallagrös eru brúkuð, eru þau margreynd að vera hið hollasta og kroptugasta læknismeðal og fæði í megrusótt og brióstveiki, lángvarandi innantskum og magaveiki, halda við jöfnum og góðum hægðum og matar meltingu, en eru þarhiá yfrið vel nærandi.

Maríugrös (Lichen niveus laciniatus) og Geitnaskóf (Lichen proboscideus), vaxa á víðlíkum stöðum og eru einninn til matar höfð. Þau eru á Íslandi alþeckt. Maríugrösin hvít og að lögun sem breið hreindýra-horn. Geitnaskófin svartgrá,

lík

lik svörtu og skorpnu skinni áföst steinum, sem hruckótt nethimna, nedan til bleikari. Þessi grös eru ecki beisk, þurfa frekari sudu, eru ágæt saman vid önnur grös, og seu þau þurkud og möluð til miöls, og sodin i miólk, verdur þaraf hvítleitur og smeckgódur grautur.

Tröllagrös eda Hreinamosi (Lichen rangiferinus) eru og alþeckt; liósgrá eda hvít á lit med mörgum smágreinum, tvídeildum ytst og med hnöttóttum dockleitari smá-vörtum. Þurkud og möluð til miöls, eru. þau reynd allgód i braud og mat, lita gult, eru miög svo holl vid brióstveiki, og góð til fódurs. Geitnaskófin litar grænt, og, sem alkunnugt, gefa Fiallagrös góda háraudu.

## III. Um Skélfisk til matar.

Mohr hefir í Náttúrusögu Íslands, bladſ. 132-33, þúnglega brixlad Íslendíngum um vanrækt mikla á þessari gódu náttúrunnar giöf, sem útlendar þiódir brúka, sem kryddmeti, selia og kaupa dýrum dómum, er hann segir, ad margur á Íslandi fari betlandi og ydiulaus um, en fóttrodt þessa ágætu fædu, sem vída er í þvílíkri nægd ad fá, ad hlada má mörg skip med hana a fáum stundum. Krækling ur (Mytilus edulis), vel þveginn frá öllum sora og sandi, ádur enn sodinn er, gefur sodinn ágætann fisk, sem bædi er gódur nýr átu, og má geymast sodinn missirislángt óskemmdur til vetrarforda i godri sýru, sem svo margt annad.

Herra-

Herramenn geyma fiskinn í ediki til sælgætis. Ada (Mytilus modiolus) er ei ørt svo smeckgód en meira búsilag, allt eins medhøndlud. Hvörtveggia brúkast vída um heim til matar, og á Færeyum er þvi almennt til forda safnad og til sølu, ad søgn Landts Prests og Mohrs *). Sama má og segia um Kúskieliafisk (venus islandica) hvar tølwerdt tilfellur, og sameginlega er allt þetta skyldt ad nota til lífsins vidurhalds, ecki síst í þeirri tíd, þá hvørr málsverdur er manneskium dýrmætur, og húngur allopt neydir margann til ad leggia sier óhollt fædi, ja, óæti til munns.

## IV. Um Færeyínga kiøt-þurkun.

Enn þótt Íslendingar mørgum þiódum minna, brúki salt til matargeymslu, og opt minna enn vera skyldi, er sallt þó omissandi til hans vardveitslu, einkum til árs- eda vetrar-forda. Eckert er ódrjúgara í búskap og eckert fædi óhollara, enn hángid

*) Kræklings- og Ødu-skeliar er hægt á smidju abli eda vid matar-sudu eld ad brenna til ens finasta og bestá Kalks, af hvørriu lítid eitt þarf til ad skierpa med lút, er stendur á þáng-pottøsku (Sóda). Se hun sídan aftøppud og seydd med tæru lýsi, einkum hákalls- eda sel-lýsi uns þycknar, vid støduga íhræringu, verdur þaraf gód græn sápa, en se gód tólg íhrærd í lýsis stad og samsodin, fæst hvít skiegg-sápa.

hángid kiøt í lágum eldhúsum, missiris- eda ár lángt svælt vid misjafnann mó-, tad- edur Þáng- og hryggia-reyk, allópt morkid og fúid; og eckert er Þó siófarmønnum fremur áridandi, nú, Þegar mislsaung bresta, enn ad geta eignast kiøtmat úr sveitum, og notad sier til spads á vetrum til umskipta vid sifelldt siskmeti og til vøkvunar, en hvørnin verdur Þad nú vardveitt Þartil? Færeyíngar taka saudarfallid strax á blódvelli, losa bóga til hálfs vid skammrisin, høggva, benda eda bráka Þessi og risin vid hrygginn svo apturá bak, ad allt fallid geti stadid flatt útÞanid, sem fláki; í Þyckvasta kiøtid rista Þeir fáa skurdi, hengia føllin sídan strax upp í vindhjalla, hvar sól og regn ei tilnær, en vindur, frost og snjór Því betur. Þar láta Þeir Þau hánga heil missiri, ef ei Þurfa ádur ad brúkast, en taka ofan smámsaman af Þeim hvad vidÞarf. Þetta vindÞurkada kiøt sióda Þeir sídan, ýmist til súpu ásamt hnútum og beinum smá-muldum, sem gefa henni miøg svo nærandi og gódann krapt, eda til sneida med fiski eda ødru og Þykir mørgum ágætis matur. Eg hefi talad vid ýmsa Færeyínga hierum, Þarámedal Begtrúp Prófast, er Þar var Prestur í mørg ár, og líka lesid Landts frásøgu, og er adferdin Þessi. En, til sælgætis hluta Þeir fallid nýslátrad í stór stycki, sióda og ánedan Þau eru heit, sá salti á Þau, og láta Þanninn liggia í 2 dægur, hengia sídan upp í vindsúg mikinn í køldum húsum eda hjøllum, hvar Þau haldast óskjemmd í hálft missiri

og lengur; er þetta kiøt ætlad til hátídabrigdis eda veizlu heldri mønnum. Som er adferdin med allt kiøt annad.

Engin óforsjállegri brúkun á kiøti finnst, enn almennings vanalega á Íslandi, ad háka nýtt eda hángid kiøt eingaungu, hvarvid 3 nægilegar máltídir opt eydast í einni; nú, ef ei fyrri, rædur skynsemi, skylda og naudsyn ad velia betr' hagnad og verja meiri áhyggiu til óskjemmdrar vardveizlu á vorum litlu faungum.

Fuglteki a er vída í eyum mikil, en eingu minna varid í vardveizlu fuglakiøts til vetrarforda. Færeyíngar kryfia þá strax, hreinsa og þvo innann vandlega, skiéra þá upp eda fletia ad endilaungu og vindþurka, sem annad kiøt; líka eru þeir flattir ástundum salltadir nidur í ílát til vetrarforda.

## V. Ný Laxveidar-adferd í stór-vatnsføllum.

Híngad til hefir bædi erfid og opt ardlitil veidi gefist í stórum og strídum vatnsføllum hiá oss, hvar lagnet ei hafa stadid vegna straums, hvar dýpt hefir giørt þau ardlitil, og þúngstreymi bannad fyrirdrætti, krafid báta og ørduga menn, hvørs kostnad ablinn ecki opt hefir í þesshättar vøtnum launad. Svo reyndist þad lengst af í bádum Hvítám á Íslandi, en riett nýlega er í Hvítá í Borgarfirdi farin ad tídkast veidi-adferd,

sem

sem virdist gefa góda heppnis-von í straum-vøtnum, hvar Lax eda Urridi gengur í, og adrar veidibrellur bregdast, einkum er hennar ardvon góð í ógagnsærum Jøkul-vøtnum, sem nóg eru á Íslandi.

Hún er annars einføld og þanninn: Svo margir laxa- eda silúnga-neta stúfar, sem lyst eda faung eru á ad tilbúa, útvegast, sjerhvørr, eptir veidivatnsins dýpt, 1 fadmur eda $1\frac{1}{2}$ á dýpt felldur, en 5 eda 6 fadmar á lengd, fellist hvørr vel svo til þridjúnga; sjettir kubbar hengiast á diúpteininn úr beini hjer og hvar til ad halda netinu greiddu nidur, en svo mikid af trjesslám á uppteininn, ad hann nemi vid vatnsbrún. Frá oddum og taungum, sem skjera sig út í vatnsfallid, ber straumrinn optarst skáhallt út frá landi, og þar skal kosta kapps um med laungum stiaka, se bátur ei-til, ad skióta netstúfi út og láta straumiun bera hann ad því leiti á enda, sem madur sier ad straumurinn ber út, en ei ofmiøg til lands, hvørs vegna stúfa-lengdinn eptir honum þarf ad lagast, því se stúfurinn oflángur, slær straumurinn honum med landi fram, sem gefur verri veidivon. Þanninn flýtur stúfurinn og hans diúpháls fritt, en hinn festist á landi. Lax og Urridi gengur mikill med løndum, oddum og taungum, hvar straumur fer hardari framhiá, og lendir þarmed í stúfunum, sem útsetiast frá mørgum oddum, en veidimadur gengur med árbøckum og adgætir, hvørt fiskur er flæktur ordinn í nockurn stúfinn, dregur þann til

lands,

lands, greidir úr og ýtir jafnskiótt út aptur. Audskilid er, ad mœstvar þurfa svo stórir ad vera, ad Lax fái ánetiast. Allt eins er um Silúnga-stúfa ad segia. Med þessum nýa hætti hefir nú í fá ár mikil veidi borist á land úr Hvítá í Borgarfirdi, og óskandi væri ad hún reynd yrdi í sem flestum stórfljótum Íslands, sem mœrg eru full af fiski.

Svo gódur, sem Laxinn er nýr, svo vandasamt er ad vardveita hann óskiemmdann til vetrarforda, því hann krefur heldin ilát og mikid sallt, egi hann þanninn ad vardveitast. En — vafalaust er, ad se hann, einkum þeir minni og megri, strax flattur og hengdur í forsælu og gódann vindblástur, hvar sól og regn ei tilnær, og þad þyckvasta strengslad, sem ryklingur, má hann, og eins sióbyrting og silúng herda, máskie enn betur hengdur fyrst í reyk fiærri hita og eldi 2ia daga tíma til smeckbætirs, einkum hvar hrísi er brennt.

## VI. Um Salltgiord.

Allgód ritgiord finnst um þad efni í Lærdómslista Fielags ritanna 1sta Bindi; Sallts má ei án vera til matar, því ættu þeir, er búa vid sió, ad kostgæfa salltabla fyrir sig og til verdslunar í uppsveitir fyrir jafndýrmætar naudsynjar. Tveir eru hinir audvelduslu mátar til salltgiordar, nefnilega: 1) ad sióda sióvatn, sem vid Ísland vída er salltríkt, hvar vatnsfœll ei nálægt falla út í sió, meykia á meiru og meiru og smámsaman láta þad sióda

nidur,

nidur, þá sallt verdur eptir á botninum, eda þó betra: ad grafa dúpar holur í sanda vid flædar-mál, hvar siór gengur opt yfir, og velja helst til þessa siósvatn, er vellur upp um hólurnar, sem reyna má med nýu eggi, hvört salltríkt se, því se svo, flýtur eggid; þetta skal standa í flötum trog-um eda grunnum slátum í sólarhita, en verjast regni, uns af sjálfu ser þornar upp og setur sallt á botninn, ennþótt suda þessa siósvatns se enn fliótari. Í klettaholum nálægt sió má sama giöra, verdi þær vardar regni og liggi vel vid sólu. 2) Enn vissari máti er á vetrum ad fylla stórkjer med sió í frosti, veria þau snjó og vætu, og láta frjósa á þeim, mölva ísinn smámsamann ofan af þeim og láta þad, sem undir er, frjósa á ný; eykst vid hvört frost sellta þess, sem eptir verdur, svo aud-veldt er ad siódа þad á eptir, til töluverds sallt-abla, í grunnum og vídum potti yfir linum eldi.

Af þangbrennuni má og vissa sallt-tegund út-leida, en, eginlega er þad lútar-sallt, sá máti er þó bædi umsvifameiri og vandhæfnari, en salltid daufara, ber og keim af pottösku bitru, svo eg ecki þori ad mæla fram med honum á Íslandi, en minnist þárhiá þess, ad nýlega hefir í frejtta-blödum vorum stadid, ad á Jótlandi hafi fundist töluverdt sallt innan um sand, hvar siór stód lengi yfir, ad þart vard fyrst vid þad í þurki og sólskini í sandinum, en sást ei í vætu edа muggu, og ad salltid næst úr sandinum, med því ad setia sió á hann í 1 dægur, láta síga ígegn og seyda lögin

nidur

nidur til fallts, hvarmed þanninn fjeckst 1 tunna af gódu fallti af 8 tunnum falltsands.

---

Þessir vóru nú póstarnir, ástkiæru Landsmenn! um hvørja mjer ad þessu sinni var fyrirlagt ad gefa Ydur skriflega hugvekiu. Efalaust munud þjer finna þá alla, einkum í Ydar núveranda ástikomulagi, miøg svo markverda, í tilliti til framfæris abla á bágborinni tíd, sem ecki leyfir oss at vænta matvæla adflutnings annarstadar ad, og krefur því af oss, ad leggia nú ei árar í bát, heldur alla atorku og fyrisjón fram til forsorgunar oss og vorum heimilum, ad hagnýta sem best øll náttúrunnar margvíslegu gædi, ad læra ad nægiast med hvad hún útskipti voru landi, uns fridur á ný fær lagt oss betra hagrædi í skaut, ad dæmi vorra norsku brædra, hvørjum strídid nú einninn býdur ad biargast vid litid, en þeir una því vel og giøra svo, strída med norskum manndómi og norskri trú fyrir vorn Konúng, fødurlandid, frelsid, vini og vandamenn. Vjer erum Norskra afkomendur, látum oss þessvegna í því litla, sem vort ástand leyfir, reyna ad líkjast þeim, án vøls og módleysu; med atorku og gódri forsjón, leita oss og fiølskyldu vorri lífsuppheldis, vongladir yfir betri hagsældum innann skamms. Svo fyllum vjer mikilvægann hluta náttúrunnar, fødurlandsins, vorra nidia og medbrædra krøfu til vor! Svo vilia vors allramildasta Konúngs!

